Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Ert þú áskrifandi að vikublaði verkafólks?

Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

6. tölublað | Þriðjudagur 6. febrúar 1979 | 8. árgangur | verð kr. 100.-

## Stefna ríkisstjórnarinnar er áframhaldandi kjararán

Kaupgjaldsvísitalan sem launahækkanir eru miðaðar við samkvæmt kjarasamningum er meingölluð miðað við framfærsluvísitölu. Inn í hana vantar ýmsa kostnaðarliði sem ekki er gert ráð fyrir við útreikning verðbóta á laun.

Því er um stöðugar kjaraskerðingar að ræða þegar þeir liðir hækka í verði sem ekki eru inn í kaupgjaldsvísitölunni, þó svo greiða eigi "fullar vísitölubætur" á laun samkvæmt kjarasamningum.



Ofan á þetta bætist svo að ríkisvaldið gerir nú stöðugt árásir á gerða samninga og samningsréttinn. Vegna stéttasamvinnustefnu verkalýðsforystunnar og "verkalýðsþingflokkanna" hefur ríkisvaldinu nú tekist að koma þeirri hefð á að það megi og geti án andstöðu brotið gerða kjarasamninga.

Ríkisvaldið er stéttarlegt vald, þ.e. vald ríkjandi stéttar. Borgarastéttin ríkir yfir verkalýðnum. Þess vegna eru afskipti ríkisvaldsins af kjarasamningum undantekningarlaust hagur borgarastéttarinnar og á kostnað verkalýðsins.

Röksemdir núverandi stjórnarflokka á kaupskerðingum sínum eru þær að "samningsrétturinn sé ekki heilagur".

framhald á síðu 2

## Háttsettir kínverskir ráðamenn heimsækja Ísland



Sjá síðu 3

## Búið að skerða kjörin - með því að tala við Sókn!

Á forsíðu Þjóðviljans 13. jan sl. birtist þessi fyrirsögn: "Reynt að skerða kjörin - án þess að tala við félagið". Tilefnið var það að stjórn ríkisspítalanna breytti einhliða vinnutíma Sóknarkvenna, þannig að þær fengu m.a. ekki álag fyrir kaffitímana. Greindi Þjóðviljinn frá því síðar að þessi breyting þýddi um 15þús kr lægri laun á mánuði hjá starfsstúlkum.

Fyrsti staðurinn sem þessi breyting átti að koma til framkvæmda á, var Öldrunardeildin að Hátúni 10b. Konurnar þar brugðust hart við og mótmæltu þessu, m.a. með því að mæta til vinnu á áður óbreyttum tíma. Síðar fóru þær svo í setuverkfall til að

framhald á síðu 2



Frá setuverkfalli í öldrunardeildinni í Hátúni 10b, sem Sókn sá um að enginn árangur varð af.

## Viðtal við Pol Pot aðalritara Kommúnistaflokks Kampútsea



Sjá síðu 4

## Gegn makki BSRB-forystunnar

Sífellt fleiri opinberir starfsmenn hafa snúist til andstöðu gegn samningsmakki stjórnar og samninganefndar BSRB við ríkisstjórnina, enda miða samkomulagsdrögin að því að svipta opinbera starfsmenn 3% kauphækkuninni 1. apríl nk. og auka stórlega miðstjórnarvald innan BSRB.

Að vísu hafa þessi mál fallið í skuggann af öðru máli. En það eru bollaleggingar ríkisstjórnarinnar um það á hvern hátt megi koma í veg fyrir að greiddar verði fullar umsamdar vísitölubætur þann 1. mars nk. Margar hugmyndir hafa heyrst, allt frá því að banna vísitöluhækkunir og til þess að "geyma" hækkanirnar fram yfir þann dag þegar vísitalan er reiknuð út.

Ljóst er að vísitalan verður ekki greidd að fullu. Það eitt virðast allir stjórnarflokkarnir vera sammála um, nema ef eitthvað skyldi vera að marka kröfur Alþýðubandalagsins.

Launþegar verða því að vera vel á verði. Gífurlegar hækkunarbeiðnir bíða nú afgreiðslu og má telja öruggt að þær komi allar til framkvæmda á næstunni.

Nokkur félög opinberra starfsmanna hafa samþykkt tillögur gegn samningamakki BSRB við ríkisstjórnina. Má þar nefna Starfsmannafélag útvarpsins og Félag símamanna.

Stjórn og trúnaðarmannaráð Félags gagnfræðaskólakennara í Reykjavík samþykkti einnig á fundi sínum nýlega ályktun gegn afnámi 3% og fyrir fullum samningsrétti.

Heyrst hefur að heldur hafi samningsvilji forystu BSRB slaknað við þessar móttökur aðildarfélaga BSRB. Full

framhald á síðu 3



Frá mótmælafundi BSRB.

LEIÐARI

# Erlent fjármagn ógnar sjálfstæði Íslands

Erlendir auðhringir og bankavald hafa afgerandi áhrif í íslensku efnahagslífi. Gagnvart þessum öflum eru ríkisstjórn Íslands og Alþingi valdalaus.

Ísland hefur verið aðili að Alþjóðagjaldeyrissjóðnum frá því árið 1945, en það ár var hann stofnaður. Bandaríkin hafa löngum verið helsti valdaaðili sjóðsins og utanríkisstefna þeirra mótað starfssemi hans. Aðildarríki sjóðsins þurfa að taka á sig ýmsar skuldbindingar gagnvart honum, sem þó eru óopinberar og því án vitundar þegna viðkomandi ríkis.

Sjóðurinn er alþjóðalánastofnun og eru mörg lönd háð lánveitingum hans og annarra vestrænna fjármálastofnanna sem starfa í tengslum við hann. Samið er um hverja lánveitingu og sjóðurinn áskilur sér rétt til að tryggja hagsmuni sína með afskiptum af efnahagsmálum lánþeganna. Ísland er djúpt sokkið í skuldafen gagnvart Alþjóðagjaldeyrissjóðnum og fulltrúar hans hafa margsinnis haft viðræður við ráðamenn íslensku efnahagslífi. Enda má nú sjá greinileg merki efnahagsstefnu sjóðsins hér á landi, þar sem sífellt er búið í haginn fyrir erlenda stóriðju, með því að setja auðlindir landsins á útsölu.

Þetta kemur berlega í ljós þega fjölþjóðaauðhringurinn Elkem-Spiegerverket getur sett ríkisstjórninni stólinn fyrir dyrnar og stöðvað sparnaðaráformn hennar varðandi Grundartangaverksmiðjuna. Alþingi er svo valdalaust í þessu máli, að það vissi ekki einu sinni að rafmagnssamningi Landsvirkjunar og Járnblendifélagsins var breytt, þannig að Elkem-Spiegerverket hefur neitunarvald í öllum málum varðandi samninginn. Það kom fram í þættinum Á beinni línu á sunnudagskvöldið að iðnaðar og orkumálaráðherra efast um að hægt sé að breyta samningnum úr því sem komið er. Hann hefur sjálfsagt ástæður til þess. Þarna er Elkem-Spiegerverket orðinn valdaaðili í íslensku þjóðfélagi með áhrifum sínum á fjárlög ríkisins.

Dæmið um það hvernig meirihlutaaðstaða íslenska ríkisins í Járnblendifélaginu var að engu gerð með baksamningum og makki, sýnir okkur: Að yfirlýsingar stjórnmálamanna og verkalýðsleiðtoga um að verksmiðjur erlendra auðhringa hér á landi skuli vera undir íslenskri stjórn og lúta íslenskum lögum, eru innantómt blaður sem að engu er hafandi.

framhald af forsíðu

# Stefna ríkisstjórnarinnar er áframhaldandi kjararán

Síðasta ríkisstjórn, íhalds og framsóknar, hafi brotið gerða samninga og því hafi þeir rétt á að brjóta þá núna.

Einnig hafa framámenn Alþýðubandalagsins, þeir Ragnar Arnalds og Ólafur Ragnar Grímsson, látið hafa það eftir sér að í raun skipti það ekki máli hvort kauphækkun sé 3% meiri eða minni. Hún hverfi hvort eð er út í verðlagið. Þeir viðurkenna sem sagt þá röksemd atvinnurekenda að launagreiðslur til vinnandi fólks séu verðbólguvaldur.

Þegar vinnulaun voru skert með lagaboði frá ríkisstjórninni um 8% þann 1. des. s.l. var verkafólki lofað umbótum í formi félagsréttinda, sem næmi kjararáninu. Undarlegt er það sjónarmið að meta félagsmál til fjár en umbæturnar hafa auk þess orðið smásálarlega litlar. Flestar eru þær og verða um ófyrirséða framtíð "hugmyndir og umræða". En kjararánið var efnisleg staðreynd.

Alþýðubandalagsþingmenn og verkalýðsforkólfar ná varla upp í nefið á sér af hrifningu yfir endurbótahugmyndunum og hafa lofað kjararánið í hástert en það er í daglegu tali nefnt "efnahagsráðstafanir ríkisstjórnarinnar". Það sem áður hét kjararán og ólög.

Ljóst er að ríkisvaldið hyggur á áframhaldandi kjararán. Til greina hefur komið að breyta vísitölugrundvellinum og þær breytingar verða varla kjarabót fyrir verkalýðinn.

Svavar Gestsson viðskiptaráðherra hefur nú eins og dyggum þjóni auðvaldsins ber tekið upp til þingafgreiðslu tillögu Seðlabankans um hundraðföldun krónunnar. Við þá breytingu skapast einnig möguleiki til kjaraskerðinga.

Og svo er auðvitað kjaránsleiðin opin. Kauplækkun með lagaboði og loforðum sem svo eru svikin. Atvinnurekendur, þingmenn og verkalýðsleiðtogar koma sér saman um það. Þar kemur vinnandi fólk hvergi nærri.



Starfandi fólk ber bagga kjaraskerðinganna og samningsrofanna.

framhald af forsíðu

# Búið að skerða kjörin - með því að tala við Sókn

leggja enn frekari áherslu á kröfur sínar.

Aðgerðir starfsstúlknanna í Hátúni fengu víðtækan stuðning starfsstúlkna annars staðar frá sem voru ákveðnar að grípa til harðra aðgerða þegar reynt yrði að koma þessari breytingu á hjá þeim.

Ríkisvaldið sá þá sitt óvænna og bætti fyrir sín fyrri afglöp með því að tala nú við félagið. Og árangurinn lét ekki á sér standa: Félagið samþykkti að kjaraskerðingin skyldi koma til framkvæmda að afloknum sex vikum, sem er venjulegur uppsagnarfrestur.

Um þetta segir í Þjóðviljanum á laugardag:

"Virðist augljóst, að um megi kenna sleðahætti kerfisins, að þessi lausn skyldi ekki finnast strax, enda taldi Aðalheiður Bjarnfreðsdóttir formaður Sóknar, að Sóknarfélagar mættu vel við una þessari sátt; aðlögunartíminn væri virtur eftirleiðis sem hingaðtil, - en um það snerist þessi deila fyrst og fremst, sagði hún."

Kjaraskerðingin - kr 15þús á mánuði - er minniháttaratriði í augum Aðalheiðar, bara að hún sé framkvæmd í samráði við hana og með löglegum fyrirvara.

Síðan fá konurnar vingjarnlegt klapp á kollinn frá Aðalheiði sem segir þær eiga heiður skilinn fyrir stéttvísina og samstöðuna. En nú eiga þær að vera þægar stúlkur því í Þjóðviljanum segir:

"-Ég vænti þess, að friður haldist nú meðan við göngum til samninga, sagði Aðalheiður..."

Sem kunnugt er hefur Sókn sagt upp samningum sínum í kjölfar Akranessamninganna. Ef frammistaðan í þeim samningum verður með svipuðu sniði og í þessari deilu, þá er ekki á góðu von.



Aðalheiður Bjarnfreðsdóttir.
Stór orð fyrir fjölmiðla, - engar efndir fyrir verkafólk.

# Námstarf á vegum Kommúnistaflokksins

Nú er að hefjast nýr námshringur á vegum Kommúnistaflokksins. Í hringnum verða lesin og rædd helstu grundvallarrit marxismans-lenínismans, t.d. Kommúnistaávarpið, kaflar úr hagfræði eftir Marx, úr "Ríki og bylting" eftir Lenín, "Díalektísk og söguleg efnishyggja" eftir Stalín og einnig stutt ritgerð eftir Maó Tse-tung. Eins og sést á þessu er farið í frumkvöðlana og markmið námshringsins er fyrst og fremst að gefa innsýn í kenningar þeirra og hvernig þeim er og verður beitt í starfi.

Fundir eru vikulega. Þeir sem hafa áhuga á að taka þátt eru beðnir að hafa samband við bókabúðina Rauðu Stjörnuna, Lindargötu 15 s. 2 78 10 opið virka daga milli kl. 16.00 og 18.00. Athugið að Dario Fo sagði eitt sinn að mesta ógæfa nokkurrar manneskju væri að vera ómeðvituð.




## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

HORNAFJÖRÐUR
Margrét Einarsdóttir
Silfurbraut 2

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

# Háttsettir kínverskir ráðamenn heimsækja Ísland

Þær fréttir hafa borist, að von sé á sendinefnd frá Kínverska Alþýðulýðveldinu til Íslands. Von er á sendinefndinni í júní á þessu ári.
Ekki er nákvæmlega vitað hversu mörg lönd sendinefndin mun sækja heim, en allar líkur eru á að hún muni að minnsta kosti koma til Norðurlandanna.

Formaður sendinefndarinnar er Geng Biao hátt settur ráðamaður bæði innan Kommúnistaflokks Kína og í ríkisstjórninni.

Geng Biao er vara forsætisráðherra, í miðstjórn flokksins og einn af 23 meðlimum pólitískrar miðstjórnar flokksins.
Geng Biao hefur um langan tíma verið einn af æðstu mönnum KFK, meðal annars átti hann sæti í forsætisnefnd fimmta þjóðþingsins.

Koma sendinefndarinnar verður vafalaust til að styrkja vináttu og samskipti milli Kínverja og Íslendinga. Það er ánægjulegt til þess að vita að viðskipti Kína og Íslands aukist, ekki síst með tilliti til þess ótrygga heimsástands sem nú ríkir.

Risaveldin ógna nú sjálfstæði og fullveldi lítilla þjóða eins og Íslendinga. Okkur er því nauðsyn að efla samstöðu okkar með ríkjum þriðja heimsins.
Nánar verður vikið að heimsókn sendinefndarinnar síðar og þá sagt frá þeim verkefnum sem henni er ætlað að framkvæma.



Lengst til vinstri er Geng Biao, meðlimur í pólitísku nefnd miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína. Hann kemur til Íslands í sumar. Hinir tveir eiga einnig sæti í nefndinni, þeir Hsu Shih-yu og Wei Kuo-ching t.h..

framhald af forsíðu

GEGN MAKKI BSRB-FORYSTUNNAR

ástæða er þó fyrir alla opinbera starfsmenn til að vera vel á verði.

Ályktun stjórnar og trúnaðarmannaráðs Félags gagnfræðaskólakennara í Reykjavík. Stjórn og trúnaðarmannaráð ályktar:

að ekki megi undir nokkrum kringumstæðum samþykkja afnám áfangahækkunar .. apríl

að opinberum starfsmönnum beri fullur verkfallsréttur.

að samningstími skuli óbundinn.

að Kjaranefnd skuli lögð niður

að sérkjarasamningar séu í höndum aðildarfélaga BSRB og þau hafi um þá verkfallsrett.

að varast beri hugmyndir sem auki enn miðstjórnarvald BSRB.

að greiða eigi fullar vísitölubætur á öll laun.



Hér sést Son Sen varaforsætisráðherra Kampuchea og yfirmaður varnarmála ríkisstjórnar Kampuchea athuga ásamt samstarfsmönnum sínum vígstöðuna í baráttunni gegn víetnömsku innrásarseggjunum.

# Fréttatilkynning frá BGH

Baráttuhreyfing gegn heimsvaldastefnu lýsir yfir andstöðu sinni við innrás víetnamska hersins í Kampútseu. BGH tekur að svo stöddu ekki afstöðu til stjórnarfars í Kampútseu undanfarin ár, en getur ekki tekið alvarlega þá fullyrðingu að innlend andstöðuhreyfing, sem stofnuð var í árslok 1978 hafi náð þvílíkum ítökum meðal þjóðarinnar, að hún hafi steypt stjórn Pol Pot.

BGH telur að innrás erlendra aðila sé síst til þess fallin að efla sósíalisma eða lýðræði í landinu. Þvert á móti eykur þessi sundrung þjóðfrelsisafla Indókína hættuna á nýrri íhlutun heimsvaldasinnaðra ríkja.
BGH krefst þess að allt víetnamskt herlið yfirgefi Kampútseu.

27.1.1979
fh. BGH
Örn Ólafsson.

# Aths. frá ritstjórn

Ritstjórn STÉTTABARÁTTUNNAR tekur undir kröfu Baráttuhreyfingar gegn heimsvaldastefnu að allt víetnamskt herlið yfirgefi Kampútseu.
Á hinn bóginn þykir okkur hæfa, að minna á í þessu sambandi, að stjórn Pol Pot hefur engan veginn verið steypt. Kommúnistaflokkur Kampútseu og hin löglega ríkisstjórn landsins, kaus að mæta innrás víetnama með aðferð alþýðustríðs, í stað þess að láta draga til úrslitahríðar strax. Þess vegna lét hún víetnömsku innrásaraðilana þenja sig yfir landið allt, áður en hún hóf gagnárásir.
Nú er málum svo komið, að skæruliðar Pol Pots þrengja að víetnömum og strengbrúðustjórn þeirra í Pnom Penh, og annars staðar í landinu.
Þetta rennir stoðum undir niðurstöðu BGH, að hin svokallaða andstöðuhreyfing til frelsunar Kampútseu, sem stofnuð er til þess að koma Kampútseu undir víetnamska stjórn, hafi nær engin ítök meðal alþýðu landsins.
Á hitt ber og að benda, að sundrung þjóðfrelsisafla Indókína hefur þegar leitt til þess að heimsvaldasinnað stórveldi hafi hlutast til um málefni svæðisins. Þetta stórveldi er Sovétríkin, sem standa ekki aðeins fjárhagslega og tæknilega við hlið víetnama, heldur hafa beitt alþjóðlegum áhrifamætti sínum til að réttlæta innrás þeirra og gengið svo langt, að senda sovéska hermenn til þess að leiða bardaga í Kampútseu. Þess vegna ættu BGH að segja: við krefjumst þess að herafli víetnama og Sovétríkjanna verði á brott úr Kampútseu.
Ritstjórn STÉTTABARÁTTUNNAR fagnar þeim stuðningi við alþýðu Kampútseu, sem yfirlýsing BGH felur í sér.

# Súkkulaðiverksmiðjur hóta uppsögnum

Vísir slær því upp á miðvikudag að rekstur súkkulaðiverksmiðja sé nú í miklum voða. Tilefnið er boðuð fimmföld hækkun á mjólkurdufti. Forstjórar Lindu og Nóa lýsa því yfir digurbaklega að ef af hækkuninni verði muni þeir bara segja starfsfólki sínu upp.

Það er aldeilis munur að vera forstjóri sem getur sagt starfsfólki sínu upp þegar hann græðir ekki nóg á því, eða að vera starfsfólkið hans sem verður að þola atvinnuleysi þegar honum þóknast.
Öllum dagblöðunum bar saman um lausn málsins, ef þau þá fundu nokkra lausn: Það verður að lækka verðið á mjólkurdufti. Fleira höfðu þau ekki til málanna að leggja.
Það sem mestu máli skiptir í þessu sambandi er atvinnuöryggi fólksins. Hver fer á vonarvöl ef fyrirtækið lokar? Eigandinn fer ekki á hausinn þótt hann þurfi að selja Sindra vélarnar í brotajárn. Það er séð betur en svo fyrir kapítalistum á Íslandi. En fyrir verkafólkið þýðir lokun fyrirtækisins atvinnuleysi og um leið auðvitað að engar tekjur eru lengur til að lifa af.
Borgaralega lausnin er sú að styrkja eiganda súkkulaðiverksmiðjunnar, svo hann geti haldið áfram að græða á súkkulaði. Fyrir verkafólk skiftir það hins vegar engu máli hvort það framleiðir súkkulaði eða eitthvað annað, heldur hvort nóg atvinna er. En í núverandi þjóðfélagi er það ekki verkafólkið sem stjórnar framleiðslunni, heldur gróðahagsmunir atvinnurekenda.






# Viðtal við Pol Pot aðalritara Kommúnistaflokks Kampútsea

Fá ríki hafa verið jafn rægð á Vesturlöndum og Kampútsea. Meira að segja Íslendingar eignuðust "sérfræðinga" í þessum málum. Ýmist numu þessir "sérfræðingar" fræði sín úr tælenskum lygasögum eða ævintýrum fransks trúboða, sem um skeið hafði reynt að boða kampútseafólki trú á almættið.

Þessi fátæka en hetjulundaða þjóð varð skotspónn gervallrar auðvaldspressunnar bæði í austri og vestri. Sögurnar voru svo magnaðar að samkvæmt þeim var þessi þjáða þjóð margþurrkuð út af ríkisstjórn Pol Pots. Og allt sem þjóðin vann sér til óhelgis var að reka af höndum sér ræningja bandarísku heimsvaldastefnunnar í langvinnu frelsistríði og vilja byggja sjálfstætt og óháð ríki.

Það er kaldhæðnislegt að einmitt þessi rógsherferð varð til að gefa sovéskri og víetnamskri útþenslustefnu réttlætingu á innrásinni.

Vestrænir fréttaskýrendur bjuggust við flótta úr Kampútseu eftir innrásina, flótta Pol Pots og stuðningsmanna hans. En það gerðist ekki. Hinir margnefndu "blóðhundar" virðast hafa nægan stuðning meðal alþýðunnar til að standa gegn algerum sigri víetnamska innrásarhersins, sem þó er margfalt öflugri her. Þetta stendur sjálfsagt í fréttaskýrendunum og á eftir að gera það betur.

Í eftirfarandi viðtali, sem belgar úr vináttufélagi Belgíu og Kampútsea áttu við Pol Pot, kemur í ljós hvað gerðist í landinu fram að innrás Víetnama. Viðtalið er tekið í ágúst sl. en hefur greinilega ekki átt upp á pallborðið hjá vestrænum fréttastofum enda er þeim meira í mun að fá "öðruvísi" fréttir frá "öðruvísi" aðilum.



Pol Pot

Fólkið sjálft leysir þessar mót hverfur, í verksmiðjunum og á samyrkjubúunum. Æðri yfirvöld fá aðeins 5-10% málanna til meðferðar.

Gagnbyltingarsinnar sem neita að gera leiðréttingar þrátt fyrir miklar útskýringar, gagnrýni og sjálfsgagnrýni eru dæmdir af fólkinu. Dómstólar grípa aðeins inn í til að staðfesta dóminn.

Við höfum engin fangelsi og notum ekki einu sinni það orð. Hvað varðar fjandsamleg öfl þá eru þau send í vinnu við framleiðsluna.

Nú er fólkið sjálfs sín herra og nýtur alls afraksturs vinnu sinnar. Vinnuaðstæður fólksins eru annað hvort betri en áður eða þær sömu, aldrei verri. En lífskjörin eru miklu betri en áður og fólk býr við miklu meira öryggi. Fjölskyldulíf hefur verulega batnað.

Aðeins 5% þjóðarinnar vinna meira en áður af þeirri einföldu ástæðu að það fólk vann í gamla þjóðfélaginu lítið eða ekkert. Núna gerir þetta fólk sér grein fyrir að til þess að lifa þarf að vinna og að vinnu þarf til að tryggja varnir landsins, uppbygginguna og bætt lífskjör fólksins.

Lífskjör þjóðarinnar hafa almennt verið tryggð og fara batnandi á öllum sviðum.

## Þjóðþing Kamútseu.

Á þjóðþingi Kampútseu eru bæði menn úr Kommúnistaflokknum og utan hans. Flokksfélagar eru nú 60% fulltrúanna.

Einkum á árunum 1973-74 fækkaði munkum mjög. Þeim hefur enn haldið áfram að fækka.

Trúað fólk er lítill hluti, einkum eldra fólk. Vandamálið með trúarbrögðin hefur þannig að miklu leyst af sjálfu sér í Kampútseu.

Pagóðunar (bænahús, innsk. þýð.) voru margar hverjar eyðilagðar af óvininum. Þeim er þó haldið við sem eru í sæmilegu lagi.

## Fyrrverandi embættismenn Lon Nol stjórnarinnar.

Þeir lifa og vinna eins og aðrir á samyrkjubúunum. Sama gildir um þjóðlegu kapítalistana. Sumir þeirra vinna í ýmsum deildum ríkisins en flestir á samyrkjubúum.

## Þeir sem koma erlendis frá.

Þeir sem koma erlendis frá vinna á samyrkjubúum, í verksmiðjum eða við ýmis störf ríkisvaldsins. Flestir taka þátt í framleiðslustörfum með fjöldanum til að læra af honum og styrkja trúnað sinn við eigin þjóð.

Meirihluti þess fólks hefur nú þegar tengst fjöldanum og leggur fram sinn skerf í uppbyggingu þjóðfélagsins.

## Kampútsear sem búa erlendis.

Þeir sem vilja koma aftur til Kampútseu geta það hvenær sem er, án tillits til þess um hvaða land er að ræða. Heimkoman verður þó að vera í samræmi við gildandi lög og reglur.

Meðal þeirra sem yfirgáfu landið um og eftir frelsun þess voru vissulega njósnarar óvinanna en margir voru líka fórnarlömb lygaáróðurs fyrrverandi valdhafa.

Það er eðlilegt að þeir sem voru blekktir vilji snúa aftur heim. Ef þeir vilja það þjóðum við þá velkomna. Margir hafa nú þegar snúið heim. Auk þess er mikill hluti samlanda okkar erlendis þjóðhollur og ver Kampútseu gegn hinum hlutlæga lygaáróðri heimsvaldasinna, afturhaldssinna og svikara.

Hvað varðar svikara og njósnara óvinanna þá eru þeir lítill hópur. Þeir sviku okkur þegar þeir voru í landinu og halda nú áfram svikum sínum erlendis. Þetta er ekkert óeðlilegt. Þetta er sama í sérhverju landi veraldarinnar. Eftir því sem við komumst næst þá er þetta okkur mun léttvægara vandamál en sumra annarra ríkja.

## Póst og símasamband við útlönd.

Við höfum aukið það stig af stigi í samræmi við möguleika okkar. Við höfum komið á fót slíku sambandi við Kína og í gegnum Kína getum við náð sambandi við önnur ríki.

Við höfum nú nýlega komið á beinu sambandi við Singapúr. Við munum halda áfram að efla tengsl okkar við önnur ríki.

## Hverjir voru kvaddir í herinn?

Herkvaðning var gerð á grundvelli byltingarsinnaðrar, pólitískrar og hugmyndafræðilegrar stöðu manna og sjálfsögðu baráttufýsi þeirra og ábyrgðartilfinningar gagnvart hernum.

Það er ekki ríkjandi herskylda heldur verður hermaðurinn að koma af fúsum og frjálsum vilja. Auk þess verður hermaðurinn að sanna ágæti sitt og baráttuvilja til að mega ganga í herinn, því her okkar er byltingarher.

Þegar þeir eru komnir í herinn fá hermennirnir stöðuga byltingarsinnaða, pólitíska og hugmyndafræðilega menntun undir leiðsögn Kommúnistaflokksins.

## Öryggisgæsla.

Fólkið leysir sjálft allar mót hverfur, stórar og smáar. Reglulegir fundir eru skipulagðir þar sem beitt er aðferð gagnrýni og sjálfsgagnrýni. Þannig eru mótverfurnar leystar jafnskjótt og þær birtast til að tryggja hámarkseiningu þjóðarinnar. Jafnvel þeir sem eru vanþroskaðastir geta sýnt framfarir eftir þolinmóða og stöðuga uppfræðslu.

Öryggisgæsla í Kampútsea er höfð í algeru lágmarki. Þar ríkir engin kúgun eins og áður. Grundvallar-lega séð er það fólkið sem tryggir öryggi landsins.

## Hernaðarþjálfun almennings.

Almenningur er ekki skyldugur til að taka þátt í hernaðarþjálfun. En við reynum afar mikið til að efla í fólkinu byltingarsinnaðan anda þjóðernisástar og ástar á fólkinu ásamt því að kynna því pólitíska stefnu Kommúnistaflokksins svo að fólkið taki af fúsum vilja þátt í vörnum landsins og uppbyggingu þess. Við reynum einnig að ala upp í fólkinu samúð og stuðning við þjóðir um allan heim og andúð á öllum útþenslu-og árásarsinnum.

Á þessum grunni tileinkar fólkið sér ættjarðarást. Það er grundvallaratriði til að tryggja öryggi landsins og sjálfstæði.

## Menning.

Menning Lýðræðislegu Kampútseu er ein: Þjóðleg og framfarasinnuð, byggð á þjóðlegri hefð.

Úr þjóðlegu hefðunum tökum við aðeins það sem er framsækið og nothæft fyrir byltinguna. Við útilokum allt sem er afturhaldssamt.

Við reynum að halda við þjóðlegum erfðum sem bjargað hefur verið frá eyðileggingu af völdum óvinanna eða frá því að vera stolið. Sama gildir um allar framsæknar erlendar bækur sem bjargað var eftir stríðið. Erlend menning er okkur nytsamleg ef hún er framsækin.

## Frítími fólksins.

Við höfum aukið og skipulagt frítíma í samræmi við ástandið í landinu. Núna er frístunda-og tómstundastarf takmarkað vegna þess að við lifum eftirstríðsár og höfum þurft að einbeita okkur að aukningu framleiðslu til að bæta lífskjör fólksins.

Samt sem áður hefur margskyns tómstundastarf aukist frá því 1975. Fólk hlustar á tónlist og annað í útvarpi, listahópar eru skipulagðir á ýmsum stöðum og kvikmyndasýningar eru þegar mögulegt er. Auk þess eru skipulagðar heimsóknir í héruð nær og fjær. Þessar ferðir hafa mikla pólitíska þýðingu því þær færa verkamönnum okkar og bændum víðari sjóndeildarhring og meiri þekkingu á föðurlandinu og framförunum á öllum sviðum: í landbúnaði, iðnaði og menningarmálum.

## Réttarfar.

Í Lýðræðislegu Kampútseu leysa dómstólar ekki móthverfurnar meðal fjöldans eins og tíðkaðist áður fyrr.



Alþýða Kampútseu sameinast nú í baráttu fyrir þjóðfrelsi.

## Hjónabönd.

Ungt fólk gengur í hjónaband að eigin vilja. Ef ágreiningur á eftir að koma upp þá er að nýgift hjón geti séð sér farborða hjálpar kommúnan þeim að yfirstíga erfiðleikana.

Ef hjón geta ekki búið saman lengur geta þau skilið. Dómstóll þarf þar engan hlut að eiga að máli.

Skilnaðir eru mjög fátíðir því fólkið hefur ríka pólitíska vitund. Sérhver fjölskylda býr við öryggi í heilsteyptu og réttlátu þjóðfélagi. Almennt séð getur þess vegna ekki verið um neinar óleysanlegar móthverfur að ræða meðal hjóna.

## Lífskjör.

Níutíu og fimm prósent þjóðarinnar nýtur nú miklu betri lífskjara en á tímum fyrrverandi stjórnar. Áður átti þetta fólk ekkert land og hafði stopult vinnu. Fólkið hafði hungurvofuna stöðugt yfir höfði sér og stóð berskjaldað fyrir sjúkdómum. Foreldrar seldu dætur sínar og syni og eiginmenn seldu jafnvel konur sínar.

Líf þessa fólks var erfitt og bauð ekki upp á neitt öryggi. Það var ofurselt grimmilegri kúgun og arðráni.

## Lýðræði og frelsi fólksins.

Í Kampútseu beitum við lýðræðislegu miðstjórnarafli á öll vandamál.

Samkvæmt þessu grundvallaratriði, lýðræðislegu miðstjórnarafli, hafa allir rétt til að koma skoðunum sínum á framfæri, hagstæðum eða ekki jákvæðum eða neikvæðum, á öllum fundum og um öll málefni.

Ákvörðun er aðeins tekin þegar allar skoðanir hafa komið fram.

Ef einhver verður var við vandamál vegna fyrri ákvarðana eða hefur tillögur til bóta þá tökum við það til lýðræðislegrar umræðu á fundi. Og meirihlutinn ræður.

## Trúmál.

Búddatrú er nátengd bændahreyfingunni í Kampútseu. Yfirgnæfandi meirihluti munkanna á uppruna sinn í bændastéttinni. Bændurnir hafa tekið þátt í byltingunni og öðlast djúpa byltingarsinnaða reynslu.

Það var þessi byltingarsinnaða bændahreyfing sem hreif munkana til fylgis við byltinguna. Óteljandi munkar hafa þannig gengið úr reglunni.

framhald á síðu 5.

## Heimshorna á milli

Heimshorna á milli

VIÐTAL VIÐ POL POT....
framhald af síðu 4.

Kampútsearnir erlendis geta sent bréf til landsins gegnum sendiráð okkar í Peking.

Borgirnar

Íbúafjöldi borganna eykst stöðugt í samræmi við þróun iðnaðar.

Varðandi eiturlyfjaneyslu, gleðikonur og börn þeirra.

Það fólk fær að lifa meðal annars fólks og læra af því. Eins og allir aðrir nýtur þetta fólk pólitískrar uppfræðslu. Flest hefur snúið frá villu síns vegar og gerst venjulegt fólk. Börn þess fá alla sömu umönnun og önnur börn.

Varðandi valdarán.

Eftir frelsun hafa bandarísku heimsvaldasinnarnir reynt valdarán en mistekist.

Alvarlegustu valdaránstilraunirnar steðja frá Víetnam og stuðningsmönnum þess, því markmið víetnama er að leggja undir sig landið.

Víetnamar hafa reynt að neyða okkur til að samþykkja markmið þeirra eða reynt að blekkja okkur til þess. Þar sem allar slíkar tilraunir hafa mistekist hafa þeir ákveðið að ráðast á land okkar. Hins vegar hafa þeir reynt að ná völdum í landinu með því að láta njósnara sína myrða leiðtoga landsins. Allt frá 1976 hafa þeir skipulega gert slíkar tilraunir en alltaf mistekist.

Afstaða Kampútseu til Sameinuðu þjóðanna.

Lýðræðislega Kampútsea álýtur sáttmála SÞ vera réttan frá fræðilegu sjónarmiði séð. Hins vegar hafa heimsvaldasinnar og útþenslusinnar brenglað þennan sáttmála í þágu sinna eigin hagsmuna og nota hann til að hylja útþenslu og árásarstefnu sína og íhlutanir í innanríkismál annarra ríkja. Einkum gegn fátækari ríkjum og þjóðum.

Fólkið í Lýðræðislegu Kampútseu nýtur allra grundvallarlegra pólitískra og almennra réttinda og efnahagslegra, félagslegra og menningarlegra réttinda. Á öllum sviðum hefur rétturinn til lífs verið tryggður, rétturinn til vinnu í sveitum landsins, í verksmiðjum eða á öðrum sviðum. Fólkinu hefur einnig verið tryggður matur, fatnaður, lyf, læknishjálp, húsnæði og menntun.

Heilsugæsla almennings.

Kommúnistaflokkur Kampútseu og ríkisstjórn landsins hafa sett fram það markmið að auka íbúatölu landsins upp í 15-20 milljónir manns á næstu 10-15 árum. Þess vegna fylgjum við stefnu sem miðar að því að búa fólki sem best skilyrði til lífsins, við




höfum lagt mikla áherslu á að koma í veg fyrir vinnuslys. Í raun og veru búum við ekki yfir neinu sem skapar sérstaka hættu á vinnuslysum. Við höfum ekki slíka vinnustaði sem námur, járn-og stáliðjuver.

Verkamenn fá vinnuhlé fyrir og eftir hádegi. Auk þess eru verksmiðjusalir stórir, loftræstir og með góðri lýsingu til að skapa sem bestar vinnuaðstæður.

Til sveitar eru vinnuhlé oftar að deginum þegar mjög heitt er.

Ástæðan fyrir afnámi peninga og framtíðarhorfur í því máli.

Afnám peninga á rætur sínar að rekja til grundvallarþarfa okkar á tímum þjóðfrelsisstríðsins.

Á árunum 1970-71 höfðum við frelsað 75-80% af landi okkar. Við höfðum á þeim svæðum pólitísk og hernaðarleg völd. En efnahagslegt vald var ekki í okkar höndum. Það var í höndum landeigenda og kapítalista.

Auk þess voru peningar Lon Nol stjórnarinnar áfram löglegur gjaldmiðill á frelsuðu svæðunum. Vegna rangt skráðra peninga Lon Nol stjórnarinnar tókst landeigendum og kapítalistum að einoka hrísgrjónaframleiðsluna. Þeir notuðu þessa einokun sína til að selja óvininum framleiðsluna og sviptu þannig fólkið og byltingarherinn matvælum. Þetta olli þjóðfrelsisbaráttunni miklum skaða.

Við áttum ekki möguleika á að vinna stríðið við þessar aðstæður. Til þess urðum við að ná í okkar hendur skipulagningu hrísgrjónaframleiðslunnar. Möguleikinn opnaðist til að bæta og tryggja lífsafkomu fólksins, sem er og að sjá byltingarhernum fyrir fæði. Samtímis varð sú stefna áhrifaríkari sem miðaði að því að koma í veg fyrir alla matvælaflutninga til óvinarins. Ríkisvaldið komst í þá aðstöðu að tryggja miðstýringu á framleiðslu og dreifingu mikilvægra vara, s.s. hrísgrjóna, salts, málma og vélaolíu.

Þörf peninga minnkaði ört á frelsuðu svæðunum. Árið 1974 minnkaði notkun þeirra um 80%. Skömmu fyrir frelsun hættu peningar gjörsamlega að gilda sem löglegur gjaldmiðill. Þessi þróun leiddi til þess að fram til þessa höfum við verið án peninga.

Hvernig eru framtíðarhorfurnar?

Það veltur á fólkinu. Ef fólkið álítur nauðsynlegt að fara til baka og taka aftur upp peninganotkun þá gerum við það. En allt fram að þessu hefur fólk ekki séð neina nauðsyn á því að taka aftur upp notkun peninga.

# Mótmæli í Washington og Moskvu







Mótmælaaðgerðirnar voru á Rauða Torginu og við Hvíta húsið og beindust gegn vopnakapphlaupi risaveldanna. Samtök gegn stríði stóðu að þessum aðgerðum báðum. Samtökin setja fram kröfur um "allsherjarafvopnun" og fordæma risaveldin fyrir stríðsundirbúning þeirra.

Blaðamaður bandaríska blaðsins The Call átti nýlega viðtal við einn þátttakanda í mótmælunum í Moskvu, David McReynolds, félaga í Samtökunum gegn stríði. Hann sagði í viðtalinu að félögum samtakanna "hefði þótt nauðsynlegt að sýna andstöðu okkar við bæði risaveldin".

Hann sagði einnig að "þrír okkar sem dreifðum dreifiritum voru handteknir umsvifalaust og einn þeirra sem hélt á borða"! Auk þess voru sex áhorfendur handteknir og þrír fréttamenn. Lögreglumenn rifu borðann í tætlur og reyndu að ná dreifiritum.

Við mótmælaaðgerðirnar í Washington voru ellefu þátttakendur settir í gæslu af Öryggislögreglunni.

Í september á síðasta ári fóru fram hliðstæð mótmæli í tveimur borgum samtímis. Það er í sjálfu sér ekki mjög fréttnæmt nema það að þessar borgir voru Moskva og Washington. Athyglisvert er að mótmælin hlutu svipaðan endi á báðum stöðunum.

# Bónuskerfi reynt í kínverskum verksmiðjum

Endurreist bónuskerfi á veigamikinn þátt í því að fram leiðsla margra kínverskra verksmiðja hefur stóraukist. Bónus var fordæmdur af "fjórmenningarklíkunni", en hefur nú komið aftur fram sem efnisleg verðlaun til verkamanna sem skila góðu starfi á verksmiðjugólfinu.

"Pólitísk hvatning og efnisleg verðlaun verða að fylgjast að, með áherslu á því fyrrgreinda", sagði Hua Guofeng formaður í skýrslu sinni til fimmta þjóðþings alþýðunnar í febrúar 1978. Síðan þá hefur þessi regla verið raungerð á tilraunagrundvelli í þrjátíu af hverjum hundrað iðnfyrirtækjum Beijingborgar (Peking).

Kínverskar verksmiðjur eru að gera tilraunir með mismunandi bónuskerfi. "Fréttir frá Kína" komust að því að í einni af verksmiðjum Beijingborgar, þar sem vinnuaflið telur 870 manns, er sett til hliðar upphæð sem svarar til tíu hundraðshluta allra launagreiðslna. Þessi tíu prósent eru notuð til að verðlauna verkamennina. Hundrað stiga mælikvarði er notaður. Þrjátíu stig eru gefin fyrir gæði vinninnar, tuttugu fyrir aukna framleiðslu, tuttugu fyrir nýtni hráefna, tíu fyrir vinnuöryggi, tíu fyrir góða mætingu og tíu fyrir hreinlæti á vinnustað.

Vinnusalur eða vinnuflokkur sem vinnur sér inn 120 stig á einum mánuði fær hæsta bónus. Sérhver verkamaður fær þá úthlutað upphæð til viðbótar venjulegu tímakaupi. Vinnuflokkar sem vinna sér inn meira en hundrað stig fá meðalbónus, og þeir sem vinna sér inn hundrað stig fá þann lægsta. Hæsti bónusinn er tólf komma átta prósent af meðallaunum verkamanns, en sá lægsti er innan við prósent.

Að jafnaði fá áttatíu og sex prósent álverkamanna bónus í hverjum mánuði. Mismunur vinnuframlags - eins og hann kemur fram í bónusstigunum - ákveður þann mismunandi skerf aukalaunanna sem hinir ýmsu verkamenn fá. Hin fjórtán prósentin missa af bónusnum aðallega vegna þess að verkstæði þeirra eða vinnuflokki hefur ekki tekist að ná þrjátíu stigin fyrir vinnugæði.

"Þessar aðferðir hafa hjálpað okkur að bæta gæði framleiðslu okkar" sagði Yang Sutian, verksmiðjustjóri. "Verksmiðja okkar hefur gert meira en að standast áætlanir á öllum sviðum framleiðslunnar síðustu fáeina mánuði, og náð nýjum tindi í framleiðslunni".

Smáatriði bónuskerfisins urðu til við lýðræðislegar umræður meðal verkamanna og skrifstofustarfsfólks. Matsnefnd verksmiðjustjórnenda og fulltrúa verkamanna gengur á milli verkstæða og vinnuflokka við lok hvers mánaðar til að ákveða hvaða hópar eða vinnuflokkar verkamanna skuli fá bónus.

Skrifstofustarfsfólk fær minni bónus.

Áhersla er lögð á pólitíska menntun, að kenna starfsliðinu að vinna af heilum hug með sósíalíska almenningsheill fyrir augum, en ekki aðeins í eigin hag..

Tvær raðir sýningarglugga með áberandi "heiðursliðs"-táknum eru báðum megin við innganginn að verksmiðjuskrifstofunni. Þar er stillt út ljósmyndum til skiptis af meira en fimmtíu verðlaunaverka num og fyrirmyndarverkamönnum, sem kosnir eru í hinni sósíalísku herferð til aukinnar vinnuafkasta.

Bónuskerfi var tekið upp í kínverskum verksmiðjum eftir stofnun Alþýðulýðveldisins árið 1949. Það var í samræmi við fyrirmæli Maós formanns um að "verðlaun ber að veita þeim sem skera sig úr í framleiðslunni". En í meira en áratug var bónusinn settur til hliðar, vegna þess að "fjórmenningaklíkan" fordæmdi hina sósíalísku meginreglu um skiptingu gæðanna, "hverjum eftir vinnuframlagi sínu", og litu á hana sem eitthvað illt sem leiddi til afburða mannadýrkunar og "endurreisnar auðvaldsins". Árangurinn varð sá að þeir sem unnu meira fengu sömu laun og hinir sem minna afköstuðu. Þeir sem unnu vel báru sama úr býtum og slóðarnir. Þetta dró úr eldmóði verkamannanna og olli skaða á iðnaðarframleiðslunni.

Eftir fall klíkunnar í október 1976 brast það vald sem hún hafði haft yfir fjölmiðlunum. Alþýðan í Kína fékk nú tækifæri til að segja og skrifa, að bónuskerfi geti ekki leitt til auðvaldsskipulags í sósíalísku landi, þar sem öll framleiðslutækin séu almenningseign og þar sem ekki fyrirfinnst arðrán manns á manni.

"Bónus er í reynd góð aðferð til að halda uppi eldmóði verkamanna, styrkja á ný starfið að pólitískri hvatningu til að byggja upp sósíalismann sagði Yang Sutian að lokum. "Það er verið að gera tilraunir með og bæta í smáatriðum aðferðirnar við að nota bónuskerfið".



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
6. tbl. 8. árg. 6.2. 1979

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




# Bankastjórar ASÍ

Til hvers eru lífeyrissjóðir verkafólks? Þeir eiga að vera til þess að greiða lífeyrisþegum úr þeim, en þær greiðslur eru svívirðilega lágar og einnig minni á ári en innkoman. Hvað verður um mismuninn?

Lánastofnanir fyrirtækja

Atvinnurekendur eiga sæti í stjórnum lífeyrissjóðanna. Er þetta réttlætt með því að þeir borgi 6% í sjóðina á móti 4% frá verkafólkinu. Þetta er reyndar blekking því í kjarasamningum er samið um hve stór hluti launa skuli borgaður út og hvað skuli borgað í ýmsa sjóði. Um það er samið að hvorki fjögur né sex-prósentin komi til útborgunar, heldur renni beint í lífeyrissjóðina. Ástæðan fyrir því að aðeins 4% koma fram á launaseðlinum er lævísleg tilraun til að láta svo líta út sem atvinnurekendur leggi 6% fram í góðgerðarskyni og eigi því rétt til ráðstöfunar á "gjafafé" sínu. Með sömu röksemdafærslu ættu atvinnurekendur einnig að geta hlutast til um hvernig fólk ráðstafar öðrum launum sínum, þau eru jú greidd af atvinnurekendum.

Tilgangurinn með setu atvinnurekenda í stjórnum lífeyrissjóðanna er sá að tryggja þeim aðgang að fé þeirra. Þetta er ein af mörgum aðferð um til þess að færa fé aftur frá verkafólki til atvinnurekenda. Vegna verðbólgunnar er fólk tregt til að láta fé sitt til bankanna og því hafa bankarnir ekki nægt fé til að seðja atvinnurekendur. Hins vegar borgar launafólk ákveðna upphæð af launum sínum í lífeyrissjóðina. Þar myndast því feitari sjóðir en svo að atvinnurekendur láti þá fram hjá sér fara, enda hafa þeir ausið sér ómælt fé úr þeim.

"Góðu börnin fá lán"

Lífeyrissjóðirnir hafa gefið forystumönnum verkalýðshreyfingarinnar aðstöðu til að leika bankastjóra gagnvart verkafólki. Þessa aðstöðu sína hafa þeir notfært sér óspart. Það kom t.d. fram þegar mótframboð var reynt í Dagsbrún í fyrra. Þá var fjöldi verkamanna sem lýsti sig reiðubúinn til þess að styðja framboðið með áróðri á vinnustöðum og söfnun undirskrifta, en baðst samt undan því að skrifa undir það sjálfir. Og ástæðan: "Ég er að sækja um lífeyrissjóðslán".

Lífeyrissjóðslán eru verkafólki bráðnauðsynleg við húsnæðiskaup og verkalýðsforystunni er það vel ljóst. "Bankastjóra"stöður þeirra innan lífeyrissjóðanna gefa þeim tangarhald á verkafólki. Það fá líka flestir að heyra sem fá lán að það sé fyrir sérstaka góðvild "bankastjóranna". Verkafólk hefur enga trú á að lánin séu ætíð veitt til þeirra sem hafa mesta þörf á þeim, heldur séu "góðu börnin" tekin fram fyrir.

Gegnumstreymi

Þegar verkafólk fær loks lífeyrissjóðsgreiðslur, þá eru þær miðaðar við það sem viðkomandi hefur greitt í sjóðinn. Verðbólgan veldur gífurlegri rýrnun á þessu fé. Lánveitingar úr sjóðnum með háum vöxtum eru sagðar tilraun til þess að verðtryggja sjóðina að hluta og vega þannig upp á móti rýrnuninni. En er ekki hægt að viðhafa aðra aðferð?

Það er vitað mál hve lífeyrisþegar eru stór hluti verkafólks og nokkurn veginn hvernig hvert það hlutfall komi til með að verða í framtíðinni. Því ætti að vera hægt að reikna út hve mikið hver vinnandi maður þarf að borga í sjóðina til þess að lífeyrisþegar fái greitt úr þeim sem svarar dagvinnutekjum, eða 80% af þeim eins og víða er erlendis.

Með þessu móti þyrfti aðra sjóði til að lána til húsakaupa, t.d. að auka húsnæðismálastjórnarlán. En það sem vegur þyngst á metunum er að þá misstu atvinnurekendur þennan "lánasjóð" sinn og uppkeypta verkalýðsforystan missti bankastjórastöðurnar.



Æðstu menn verkalýðshreyfingarinnar hafa nú orðið fjárhagslegt vald yfir verkafólki. Hér er miðstjórn ASÍ á fundi.

# Fréttatilkynning frá 8. mars-hreyfingunni

8. mars-hreyfingin beitir sér nú fyrir samstöðu fjölmargra samtaka um úrbætur í dagvistunarmálum. Í því skyni hefur hreyfingin sent bréf til 65 samtaka, svo sem kvennasamtaka, stéttarfélaga, íbúasamtaka, skólafélaga og annarra hagsmunafélaga.

Í bréfi þessu segir m.a.: "Dagvistunarmál hafa verið æ meira til umræðu síðastliðin ár. Veldur þar mestu að opinberir aðilar hafa ekki komið nægilega til móts við þörf vinnandi fólks fyrir nýjar dagvistunarstofnanir, fleiri dagvistarpláss og betri aðbúnað þeirra dagvistarstofnana sem fyrir hendi eru."

Í bréfinu er hinum ýmsu samtökum boðið til fundar til að ræða hugsanlegar sameiginlegar aðgerðir.

8. mars-hreyfingin var stofnuð í fyrra og hélt hún baráttufund í Tjarnarbúð 8. mars, á alþjóðlegum baráttudegi kvenna. Í nóv. s.l. hóf hreyfingin vetrarstarf sitt. Meginverkefni hreyfingarinnar er að undirbúa aðgerðir 8. mars n.k., svipaðar þeim sem efnt var til í fyrra, en auk þess að vinna að því að skapa breiða samstöðu um afmörkuð málefni kvennabaráttunnar, svo sem dagvistunarmál.

8. mars-hreyfingin er kvennabaráttuhreyfing. Einkunnarorð hennar eru: Til baráttu gegn allri kvennakúgun. Á fundi sínum þann 20. janúar s.l. markaði hreyfingin sér auk þess stefnugrundvöll, þ.e. 5 vígorð, sem móta skulu það starf sem framundan er.

Þessi vígorð eru:

1. Kvennabarátta á grundvelli stéttabaráttu.
2. Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum.
3. Næg dagvistarrými fyrir öll börn.
4. Sjálfsákvörðunarrétt kvenna til til fóstureyðinga.
5. Gegn allri heimsvaldastefnu.

Auk þess mun hreyfingin taka upp ýmsar aðrar kröfur sem ekki stríða á móti þessum grundvelli.

8. mars-hreyfingin er samtök einstaklinga og geta allir, bæði konur og karlar, sem eru sammála stefnu hennar orðið félagar.

Hreyfingin mun halda tvo liðsmannafundi fyrir 8. mars. Verða þeir haldnir í Sóknarsalnum að Freyjugötu 27, þann 8. febrúar og 1. mars nk. og hefjast kl. 20:30.




Frá baráttufundi Rauðsokkahreyfingarinnar þann 8. mars 1978. Þá hélt 8. mars-hreyfingin annan álíka fjölmennan fund.

Mjög mikilvægt er að hreyfingunum tveim takist að sameina krafta sína í þeim átökum sem framundan eru.

Ágreiningsmálin rista ekki það djúpt að þau réttlæti klofning í hreyfingu baráttukvenna.

# Í tilefni fréttatilkynningar frá 8. mars-hreyfingunni

Það er okkur mikið fagnaðarefni að 8. mars-hreyfingin skuli ætla að beita sér fyrir samstöðu, ekki síst þar sem um er að ræða jafn mikilvægt mál og raun ber vitni. Einmitt nú, þegar ríkisvaldið kyrjar sultarsöng og samdráttar verður vart á ýmsum sviðum, verður að gæta vel þess litla sem miðast hefur í dagvistunarmálum.

Það er von okkar að þetta samstarf takist og verði árangursríkt. Við teljum líka nauðsynlegt að vakin verði nánari athygli á þessu framtaki og því hvernig viðbrögðin verða hjá hinum 65 samtökum sem leitað var til.

Það vakti athygli okkar að í fréttatilkynningunni er sagt að 8. mars-hreyfingin, sem sé kvennabaráttuhreyfing, hafi það að meginverkefni að "undirbúa aðgerðir 8. mars n.k., svipaðar þeim sem efnt var til í fyrra, en auk þess að skapa breiða samstöðu um afmörkuð efni kvennabaráttunnar s.s. dagvistunarmál."

Þetta er eðlilegt og sjálfsagt, nema hvað þarna er talað um aðgerðir sem verði svipaðar þeim sem voru í fyrra. En þá gengust bæði 8. mars-hreyfingin, Rauðsokkahreyfingin fyrir aðgerðum, sitt í hvoru lagi. Ekki er hægt að segja að 8. mars-hreyfingin hafi beitt sér fyrir samstöðu eða samvinnu þá, eins og menn muna. Af þessu hlaust óþörf og óæskileg sundrung innan kvennabaráttuhreyfingarinnar á Íslandi. Við vonum að með aldri og þroska hafi hreyfingin náð svo langt, að slíkt þurfi ekki að endurtaka sig. Baráttan gegn allri kvennakúgun er barátta við stéttaróvin verkalýðsins, en ekki við bandamenn hans.

ÚR NATÓ

HERINN BURT

# Ályktun frá SÍNE

Á jólafundi SÍNE 4. jan. s.l. var eftirfarandi samþykkt gerð:

Jólafundur Sambands íslenskra námsmanna erlendis ályktar: Að styðja þá fyrirætlan Samtaka herstöðvaandstæðinga að efna til herferðar fyrir þjóðaratkvæðagreiðslu um hersetuna og aðild Íslands að NATO.

Samþykkt samhljóða.